{Þeirra íslendsku evangelisku
Smárita Nr. 58.}

# Frásaga
af
# Elísabetu Dayrmanns dóttur.

(Sjá niðurlag þess evangeliska Smárits Nr. 32.)

## Fyrsta atriði.

Mikið yndislígt er að yfirvega Guðs náðar verkanir í tilsellum hans barna, hér í lífi. Einkum er glediligt að sjá, hvörsu opt, að hjá því fátækara fólki, að Guðs miskunar geitslar hafa svo uppljómað og lífgað hjörtun, að það er þeckjanligt, hvörsu Guðs andi hefur þryckt á þau Christil líkíngu. A medal þesshúttar fólks, er færra sem hindrar sannann og hreinskilinn Christindóm, enn hjá þeim sem ædra stands eru. Margar og megnar eru hindranir þær, sem ríkdómur, metord og hofdíngja teingdir leggja í veiginn fyrir Christindómsins frjálsligu játníngu, og hvað þá heldur hans æfíngu. En samt verdur því ecki neitad, (hvað eg ogsvo af eigin reynslu sannað gét), að Guðs nád fær líka ástundum verkad svo hjá sumum af hærri rød, að þeir géta mótstodu veitt sínum náttúru hofmód og sjálfstrausti, samt veraldar muna og maktar tælíngum, en láta í ljósi sannarligt andans volædi, Guðs ótta, audmýkt, sjálfsafneitun og mannelsku. En þó sem áður yfirhofud að segja, vilji menn skoda Christindóminn í hans hærri hreinleika, skulu menn

heldst leita hans hjá þeim sem fátækir eru af gótsi, en ríkir af trú. Já hvörsu opt hefur ei Gud sitt musteri í hreisum hinna fátæku! Hjá þeim, sumum hvörjum, lærir madur best ad þeckja, hvad þau ord: trú, von og kjærleiki, hafa ad þýda. Þar sjá menn opt skýna skjærustu geitsla Guds vísdóms, maktar og gjædsku, í því ad frelsa syndarana. Eptirsylgjandi sannferdug frásaga leidir ad þessu hin ljósustu rok, og getur því ecki annars enn mikilvæg þókt hvörjum þeim, sem, til ad þeckja sjálfan sig, girnist læra ad þeckja ótáldrægar Guds nádar verkanir í annara sálum. Persónu þá, um hvörja saga þessi hondlar, lærdi eg fyrst ad þeckja af eptirfylgjandi sendibréfi, (segir sá sem þessa sögu í upphafi ritad hefur); þad hljódar svo:

"Minn Herra! Forlátid mér, ad eg vogast ad skrifa ydur til, þó eg aldrei hafi vid ydur talad. En einusinni hefi eg heyrdt ydur prédika. Eg álít ydur ad vera trúlyndann prédikara, sem vara vill syndarana vid Guds reidi, hvör hótud er ollum ydrunarlausum. Eg óska ydur Guds adstodar þartil. Hjartanliga gladdi mig ad heyra, med hvílíkum kjærleika þér tókud ámóti þeim vesæla soldát. Sannliga hefur Christs kjærleiki sendt ydur til þess auma manns. Eg óska, ad sá kjærleiki meigi ríkugliga hjá ydur búa fyrir trúna, og ad hann þvíngi ydur til ad leita ad þvílíkum villuráfandi mannesskjum, med brennandi girnd, ad selja ydur til slíkrar Guds þjónustu. Æ verid, Herra, brennandi í bæninni til Guds, um umvendun syndaranna. Makt hans er stór, hvör kann henni móti ad standa? Hann hefur lofad ad heyra trúarinnar bænir, sem frambera st í hans Sonar nafni. Fyrir trúna á Christ, gledjunst vér í voninni, og væntum eptir nálægd þess tíma, þá allir

munu þeckja og óttast Drottinn, og ein þjód skal verda fædd á einum degi. Ó, hvorsu farsæll mun tími sá verda, nær Christi ríki kémur! þá mun vilji hans verda, svo á jordu sem á himnum. Þá munu menn dagliga fódrast á Guds kjærleiks himnabraudi, og gledja sig í Drottni alla sína æfidaga! Eg tók fyrir mig, Herra! ad skrifa ydur til þennan sunnudag, af því eg féck ecki færi til ad komast til kyrkjunnar. Mín einasta kjæra systir, sem vinnustulka var hjá ødrum, vard sjúk, og eg fór þángad, sem hún átti heima, ad gánga til hennar verka. En nú er hún burtu úr þessari veroldu. Eg ætladi ad bidja ydur ad skrifa henni til, út af nockru, sem þúngt lá á hennar hjarta. Hún vard nefniliga fullkomliga sannsærd um sitt fyrra synduga líferni, ad hún ecki hefdi gengid á Guds vegi, edur leitast vid ad þóknast honum. Hjarta hennar vard alvarliga ángurbitid þar út af; og þad styrkir mig í þeirri von, ad hún fengid hafi ad fara vel, og komast til himnaríkis, hvar hún ásamt heil. Englum vegsamar Frelsarans kjærleika. Eg vona eg meigi, í tilliti hennar, skrifa: "sælir eru þeir sem í Drottni deya!" Hún girntist ad medtaka Christi kvoldmáltíd, og taladi mikid um hans dauda og pínu. Eg sagdi henni, svo vel sem eg gat, hvad þad væri, ad medtaka Christum í sitt hjarta. En sjúkdómur hennar fór í voxt, og hún sýndist ánægd ad deya; og eg vona hún hafi skilid vid þessa syndugu veroldu, til ad lifa eylífliga hjá Gudi. Eg treysti því, Herra! ad þér styggist ecki vid þad, þó ein fáfród manneskja taki sér fyrir, ad skrifa ydur þetta. Eg veit þér erud kalladur til ad uppfræda syndara á Guds veigi, og munud því vorkénna mér, og vera svo gódur ad

svara þessu illaskrifaða bréfi, og gefa mér nockra uppfrædíngu. Það er mín hjartans girnd, að hafa sama sinni og Christur hafði, svo að, nær eg vakna upp eptir hans mind, eg megi þá fullsodd verða. Mín systir lét ósk þá í ljósi, að þér vildud greftra sig; ockar Sóknarprestur er hindradur frá að koma. Hún dó á þridjudags morguninn, og hún á að greftrast á fostu- edur laugardaginn, hvort sem heldur ydar hentugleikar leifa. Látid mig vita med bréfberanum, hvort þér uppfyllt getid þessa bón mína.

Elísabet Dayrmanns dóttir.

Þegar eg las bréf þetta, fell eg í stóra furdu yfir því christiliga sinnislagi, alvoru og einfeldni, sem af því framskein. Still og stafagjord á því var vansafull; en það jók því framar tiltrúnad minn, til þess óþeckta skrifara; því það sýndi hún var af lágu standi, en full af hreinskilnum Gudsótta. Að komast í kunningskap vid þvilíka manneskju gladdi mig hjartanliga; því svo þeinkjandi var ecki alhægt að finna í mínu nágrenni. Opt hefi eg æskt þess, að þvilikt skrifligt samtal væri meir tídkanligt vor á medal; því eg hefi stærstu orsök að vænta góðs ávaxtar þaraf, bædi hjá siálfum mér og ödrum. Undir eins og eg hafdi lesid bréfid, spurdi eg, hvor sá væri, sem med það komid hefdi? Hann bídur hérna úti fyrir dyrunum, var mér svarad. Eg géck svo út til að tala vid hann. Einn heidarligur gamall madur stód þá fyrir augum mér. Hans silfurgráa hár, og ellihruckur í andliti hans, jók hans æruverda útlit. Hann stód og studdi höfdi sínu og handlegg vid portid, en tár dundu ofan eptir vaungum hans. Þegar eg kom til hans, heilsadi hann vingjarnliga uppá mig, og sagdi: eg flutti bréf til ydur frá dóttur minni; og eg er hræddur um,

ad þér hafid álitid þæd ofdyrfsku, ad gjora ydur þvílíkt ónædi. Öldúngis ecki, svaradi eg; hvert á móti er eg mjög gladur yfir, ad geta verid ydur og ydar náúngum, á þennann hátt, til nockurrar þénustu; svo framt þad ei er móti ydar Sóknarprests vilja. Sá gamli svaradi: hann sagdi vid mig í gjærdag, ad sér væri þad mikid kjært, ef nockur vildi, i sinn stad, kasta moldu á barn mitt, þar hann hefdi rétt sama dag sérligum önnum ad gégna. Þar ad auki er heimili hans ædilángt í burtu frá oss. Þegar eg sagdi þetta dóttur minni, bad hún mig ad fara med þetta bréf til ydar, sem sýnir hvornig ástadt er. Nú baud eg þeim gamla manni, ad koma inn til mín, og hann þádi þad. Eg spurdi hann þá, hvert hans handverk væri, edur af hverju hann hefdi sitt uppheldi? Hann svaradi: um mína daga hefi eg leingst lifad á einum bæ, sem er hálf dagferd hédanfrá. Þar gét eg haldid nockrar kýr, og af ávexti þeirra og ödru litlu, sem eg vinn mér inn, hefi eg haft nóg til forsorgunar mér og mínum.

Eg spurdi þá: hefurdu margt manns í heimili? Hann svaradi: eina gamla og uppgéfna konu; einn Son og eina dóttur; því sú önnur dóttir mín er nýliga vikin frá þessari vondu veroldu. Eg sagdi þá til hans: ad von þinni til annarar betri! Hann svaradi: já, þess vona eg; ad vísu géck hún ecki á þeim sama góda vegi, sem systir hennar; en eg held, ad þær alvarligu áminníngar, sem systir hennar gaf henni ádur enn hún dó, hafi ordid sálu hennar til frelsunar. Hversu stór nád er þad, ad eiga þvílík börn, sem eg á. Eg hugsadi heldur eckert um mína sálar velferd, fyrri heldur enn dóttur mín tók ad bidja mig grátandi, ad þenkja um Gud og hans reidi gégn syndinni.

Eg sagdi þá til hins gamla manns: hvorsu gømul eru børn þín? Hann svaradi: sonur minn hefur fimm um þrítugt; en dóttir mín er um þrítugt; en sú sem nýsálud er, hafdi sjø um tvitugt. Eg spurdi þá: en hvorsu gamall ert sjálfur þú? Hann ansadi: eg er nú á mínu sjøtugasta ári; en kona mín er enn=nú eldri. Vid erum bædi ordin ofur duglítil til ad þjóna; en dóttir mín vann þad til, ad fara úr gódri vist, sem hún var í, og flytja sig til ockar, til at stýra ockar litla búi. Hún er ein mjøg ydjusøm og gód stúlka. Eg spurdi þá: hefur hún alltaf verid svoleidis? Sá gamli svar=adi: oney! þegar hún var ýngri, var hún uppá heim=sins vísu, gésin fyrir skémtun, klæda=prjáli og listugum selskap. Og satt ad segja, þá vorum vid øll mikid fá=fród, og hugsudam, ad, ef vid ad eins hyrdtum ockar lík=amligu skyldur, og gjørdum aldrei neinum rángt til, þá þyrftum vid ecki annars vid, til ad verda sáluhólpin. Bádar dætur ockar voru eins og vid foreldrar þeirra, framandi frá Guds vegum, og ordi hans nádar. En sú eldri fór í vist, og eptir nockur ár lidin, heyrdi hún prédikum eina af vissum Presti, og vard í frá þeim tíma øll ønnur manneskja. Hún tók nú ad lesa Biblí=una, vard siduglynd bænrækin mjøg og bindindissøm. Skømmu þar eptir, þegar hún eittsinn heimsókti ockur, færdi hún ockur 4 Speciur, sem hún hafdi dregid af kaupi sínu, og sagdi: ad med því vid værum ordin gømul, þyrftum vid styrks vid; og hún qvadst nú ecki framar ætla, ad kosta peníngum uppá klædnad sinn, sem ei væri til annars, enn ad ala hofmód og hégómagyrni. Hún sagdist heldur vilja sýna þacklátsemi foreldrum sínum, sem hún elskadi mjøg inniliga; og þad fyrir þá skuldi, ad Jesús Christur hefdi sér svo stóra nád aud=

syndt. Í fyrstu furdadi ockur mikiliga yfir hennar tali; en skjótt vard ockur umgengni hennar hin kjærasta; því í allri hegdun sinni var hún audmjúk og kjærleiksfull, og sýndi alla-umsorgun fyrir ad vilja gjora ockur gott, bædi til líkama og sálar; og hún var aldeilis umskiptilig ordin, frá því sem hún hafdi ádur verid. En svo athugalaus sem vid sjálf reyndar vorum, tókum vid þó ad hugsa, ad þar hlyti ad vera nockud merkiligt falid í Christindóminum, þar hann, á svo stuttum tíma, megnadi ad umbreyta þannig manneskjunni. En hennar ýngri systir plagadi ad hlæa ad henni, og gjora gis ad því sem hún sagdi, og áleit þad vera af einhverju trubli í heila hennar. Ney, systir mín, sagdi þá Elísabet: hofud mitt er ecki trublad, heldur meina eg ad hjarta mitt umvendt sé, frá elsku syndarinnar til Guds elsku; og eg óska af hjarta, ad þú einhvorntíma fáir ad sanna, hvorsu hættulig og táldragandi þín innbirlada gledi er! Systir hennar svaradi: eg hyrdi ecki um ad heyra þína prédikun! Eg er ecki verri enn annad fólk, og þad nægir mér. Hún svaradi: þó þú systir ecki viljir heyra ord mín, þá géturdu samt ecki hindrad mig frá, ad bidja fyrir þér, og þad skal eg gjora af ollu hjarta. Og eg vona, minn Herra! ad hennar bænir séu heyrdar. Því þegar systir hennar vard sjúk, reisti Lísa mín til húsbænda hennar til ad gánga í hennar vinnu, og til ad þjóna systir sinni, í hennar sjúkdómi. Hún var mikid hugsjúk út af sálar ástandi hennar, og hún taldi þángad til um fyrir henni, ad hún, skepnan, tók til ad komast vid, og þeckja sína íbúandi syndaspillíngu, og ad hafa eptirlæti af tali systur sinnar. Þegar vid kona mín vitjudum eittsinn þessarar ockar sjúku dóttur, sýndi hún mikla blygdun út af sínum fyrra lifnadi, en vonadi

þó, ad Frelsarinn, sem svo gódur hefdi verid vid systur sína, mundi og svo audsýna sér nád. Hún þeckti hvílíka ólucku hún af syndinni hefdi, fann ad hún ecki gjæti hjálpad sér siálf, heldur hlyti ad flýa til Christum, svo sem þess, hjá hverjum einum hún vonadi frelsis. Og nú, Herra! nú er hún í burtu frá oss, og eg held ad bænir systur hennar um hennar umvendun, séu af Gudi heyrdar. Æ Gud miskuni sig á líkann hátt yfir ockur, hennar vesælu foreldra!" Þetta mitt samtal og þess gamla manns útlistadi ánægjanliga þess nýmedtekna Sendibréfs meiníngu, og gjørdi mig þess áhyggjusamari fyrir, bædi ad uppfylla bón hlutadeigenda, og komast í kynni vid persónu þá, sem bréfid skrifad hafdi. Eg hét þessvegna þeim góda gamla manni, ad eg skyldi á áqvednum tíma á fostudaginn koma; og þegar eg hafdi nockud meira vid hann talad, um hans eigid ástand, í tilliti nálægs sorgar tilfellis, géck hann í burtu frá mér.

Eptir ad þessi æruverdl gamli madur var nú vid mig skilinn, uppkomu hjá mér ýmisligar imindanir, hverra eg nú minnist med vidkvæmni og fegnudi.

Á tilteknum tíma kom eg sídan til kyrkjunnar, og eptir litla stundu lidna, sá eg koma ad kyrkjugards hlidinu heydarliga og kyrláta líkfylgd. Það var hrærandi sjón, ad sjá þá oldrudu foreldra, ásamt bródur og systur hinnar framlidnu, samt nockra fleiri ættingja, vera þar í hóp.

Einkum hrærdi mig útlit stúlku þeirrar, sem mér tilskrifad hafdi, er sýndi á sér bædi audmýkt, gudrækni og gédfeldni. Hjá henni votladi sig einskiær alvara án tilgjærdar, og hjarta fullt af lífi og andagt.

Nockud sem tilbar vid þessa jardarfarar þjónustu, er verdugt á ad minnast, sem, med fleiru, sýnir, þad

hátídliga og hrærandi, sem liggur í vorum evangelisku gudligu greftrunar ceremoníum. Einn madur frá sama plátsi, sem ádur verid hafdi mjög andvaralaus, kom til kyrkjunnar, af tómri nýúngagirni, og til at sjá fólkid. Hann kom og svo ad grofinni; og midt í því, eg var ad lesa bænir þær, sem tilsett er, ad vid greftranir lesast skuli, vard hjarta hans, af vissum ordatiltækjum í bænunum fángad af djúpri og sterkri sannfæríngu, um syndir sínur og sálarháska. Og þessi hræríng skildi sídan aldrei vid hann; heldur leiddi hann smámsaman til fullkomina sinnaskipta, hvar til eg hefi margar og ósefandi roksemdir. Hann minntist opt á þessa jardarfør, og viss ord, sem hann heyrdi tolud, svo sem medol þau er Guds nád brúkad hefdi, til ad leida sig til saunleikans vidurkénníngar og sannrar umvendunar.

Hvor finnur hér ecki auglj óssa og ypparliga samstemmu kríngumstædanna, hverjum einginn styra kunni, nema Gud alleinn? Hversu miklu tapa þeir ecki, sem ecki vilja athuga hversu ad Gud stjórnar tilfellunum í mannanna Lífsframgángi! Já, hversu mikid tapar sjálft útlit tilfellanna, þegar þau ecki álítast sem áqvardanir Guds forsjónar, til mannanna frelsis og sáluhjálpar! Látum spottarana seigja, ad slíkt sé alltsaman hending! En vér viljum þár á móti med addáun hrópa: sjáum Guds vísdóm, almætti og nád! Eptir þad greftrunarþjónustan var nú úti, taladi eg litla stund vid þau gomlu hjón og dóttur þeirra. Hennar útlit, augnarád og hegdan var átakandi. Eg lofadi ad koma sídar á heimili þeirra, og þar med vard eg þessu fólki velkunnigur. Látum oss vegsama Gud hinna fátæku, og bidja ad sá fátæki meigi verda ríkur í trúnni, en sá ríki fátækur í anda!

## Annad atridi.

Vid ad fylgja líkømum vorra framlidnu vina til grafarinnar kénnir sála vor ſtakligra tilfinnínga. Tilfinnínga — ſem mikid eru lagadar, eptir þeirri ímindun, ſem vér gjørum oſs, um þeirra ſælann edur óſælann afgáng. Því nær vér þykjunſt viſsir vera um ad þeir hafi lifad og dáid í Drottni, gjørir þad ſøknad vorn ſætann og hátídligann. Endurminníng vorrar fyrri umgéngni, ſamtals og ſýſlana vid þá í lífinu — ſem vér trúum ad inngéngnir ſéu ſælu viſt hins betra heims — ſykrar beiſkju ſaknadarins í ſálu vorri, med tilhugſun þeſs dags, þá Drottinn dyrdarinnar mun opinberaſt, umkríngdur af fjølda allra ſinna barna, hvør aldrei munu frá honum, edur hvørt frá ødru ſkilin verda. Hvørt einn heſur í lífinu ſátækur edur ríkur verid, á háum edur lágum ſtig, lærdur edur ólærdur, gjørir þá alls eckért til ſakarinnar; hitt ad þeir allir eru nú ordnir kóníngar og preſtar fyrir Gudi, er nú þeirra einaſta æra og edalbómur. Medal þvílíkra nýliga heimførnu trúadra, vid hvørja eg á ſídan vona og óſka mér ad meiga tala um Skaparans vísdóm og Frelſarans kjærleika, var mannestja ſú, Eliſabet Dayrmanns dóttir, hvørrar andligu líkſøgu eg nú rita. Hérumbil vikutíma eptir greftrun ſyſtur hennar, tók eg mér ferd á hendur, eptir loforði minu, ad heimſækjá þetta fólk, í þeſs eigin húſi. Þau morgu ſkodunarmerki Guds dáſemda, ſem fyrir mig báru á leidinni, bædi á himni og á jørdu, gáfu mér tileſni til ad hefja þánka mína til Skaparans, hvørs almætti, vísdóm og gjædſku ad allir hlutir háſtøfum hrópa; ecki einúngis þeir ſtóru, ſvo ſem Sólin á himninum, jardarinnar, fjallanna, vatnanna og bygdar-

lagsins lögun, heldar og svo þeir smærri, svo sem trén, laufin á trjánum, jurtirnar og blómstrin, já hver einn smáfugl edur fidrildi, í loptinu, og hver einn yrmlíngur í moldinni, allt þetta ætti ad benda þaunkum sérhvörs skodara til þeirrar stóru og gódu veru, af hverjum allt þvílíkt tilbúid er, og vekja hjartad til gledi, traustis og tilbeidslu. Þegar eg nú nálægdist kotid, í hverju sá gamli gódi Dayrmann bió, sá eg hann áleingdar á mörkinni, hvar hann var ad reka nockrar kýr í húsaskjól, undir hæd einni, ábak vid bæ hans.

Eg var kominn heilnærri honum, ádurenn hann vard mín var, því hann var ordinn sjóndapur. Eg kalladi þá til hans og heilsadi uppá hann; hann staldradi vid, og gledi skein af augum hans; og hann sagdi mig velkominn: "Gud blessi ydur, sagdi hann, þad er oss stór gledi, ad þér komid til ockar; vid hofum alla vikuna vænt eptir ydur." Þegar eg nú reid ad bænum, kom þar út dóttir hans, í fylgd med sinni gömlu og vanfæru módur. Sú sjón vakti nú náttúrliga upp hjá mér endurminníngu ockar sumfunda, vid greftrunina skömmu ádur. Saknadartár, blöndud gledi tilfinníngum yfir komu minni, skinu framm af yfirbragdi þessa æruverda litla bæarsafnadar. Eg sté svo af hestbaki, og kom þar ad einum litlum bæ, yfirskygdum af tveimur vellaufgudum valnytjatrjám, og var sídan leiddur inn í húsin. Öllu þar inni var mjög ræksluliga og hreinliga fyrirkomid, þó fátækligt væri; og á hillu einni, þar í húsinu, sá eg liggja tvær Biblíur, samt fáeinar andligar bækur og smárit. Nú þeinkti eg med mér: hér má víst vera adsetur Gudhrædslu, fridar og ánægjusemdar! Dóttirin ávarpadi mig þá og sagdi: Herra minn! vid erum ecki verdug þess, ad þér komid undir ockur þak!

en mikid vel hafid þér nú gjørdt, ad reisa svo lángann veg, ockar vegna! Frelsari ockur og herra, svaradi eg, géck þó lángtum leingri veg til ad vitja vesællra synbara. Hann géck út af skauti síns fodurs, og lagdi af sér býrd sína, og kom híngad nidur á jørdina, til ad audsýna miskun fordæmdum heimi; og skyldum vér þá ecki, ef vér játum oss hans eptirfylgjara, breyta eptir honum, bera hvor annars byrdi, og gánga umkríng, til ad gjøra gott, eins og hann? Nú sem hinn gamli madur var innkominn, endurnýadi hann aptur, ásamt konu sinni og dóttur, ad segja mig velkominn. Fljótt kom í tal, um afgáng þeirra nýsáludu dóttur; en þad gudhrædda sinnislag og vidkvæma hjarta, þeirrar sem eptirlifdi, lét sig í ljósi af øllu því, sem hún taladi vid foreldra sína, vid mig. Eg féll í furdu yfir hennar vyrdíngarfulla tali um Gud, hvørju svo merkjanliga fylgdi þacklátsemi og kjærleiki til Christs, fyrir syndugra manna frelsi, sem hún allt útlistadi á svo greindann og gédfeldann hátt. Af því hún ádur þénad hafdi á ýmsra heldri manna heimilum, hafdi hún ad sonnu upptekid nockud betri klædnad og sínari sidi, en hennar følskvalausi Guds ótti fyllti þó alla hennar umgeingni med audmýkt og blygdun. Í tilliti efnis þess, sem henni mest á hjarta lá, vildi hún nú, bædi vegna sín sjálfrar og foreldra sinna, nota sér sem best komu mína; en hvørsu sem girndin eptir þessu brann í brjósti hennar, fanst þó ecki hjá henni minnsta spor til framhleypnis, sérþókta edur ógjætnis í ordum. Sú kyrláta sidsemi, sem er prýdi hennar kyns, og sú undirgéfni, er sómir einu barni, voru hjá henni sameinadar stillíngu þeirri og alvøru, sem einum sannchristnum fylgir. Þad var ómøguligt ad vera svo í hennar umgéngni, ad madur

ecki yrdi var þess, hvorsu ad hjartalag hennar og hegdan sambaund þeim evangelisku ástædum, er hún játadi med sínum munni. Fljótt tók eg líka eptir því, hvorsu ástundunarsom hún verid hafdi, og hvorsu luckuligann framgáng hún hafdi fengid í þeirri blessudu vidleitni, ad leida foreldra sína til þeckingar og reynslu þess evangeliska sannleika. Ó, hvorsu dýrmætt er ad finna eina únga manneskju sýna þvílík merki síns barnakjærleika! Hvorja sælu og luckn kunna þau born, sem nádarinnar Anda medtekid hafa, midt í því ad foreldrar þeirra gánga í synda og fáfrædismyrkrum, hvorja sælu; segi eg, kunna þau stærri hér á jordu ad hreppa, enn ef þau géta ordid medal til sinna foreldra umvendunar? Þad náttúrliga elskuband medal þeirra styrkist þá af nádarinnar.

Berliga mátti sjá þad af umgengni og tali þeirra gomlu hjóna, í húsi þessu, ad þau álitu dóttur sína, sem þá er væri lærimeistari þeirra í gudligum efnum; en allt fyrir þad, soknudu þau einkis í, af hennar dótturligu undirgéful og hlýdni, hvorja hún í ljósi lét med sífeldum kappsmunum, ad þéna þeim, sem mest hún mátti í því líkamliga, þar hún bar alla umsorgun fyrir þeirra litla búi. Trúarbrogd þessarar úngu persónu voru andi og líf. Hennar álit á rádstofun Guds til frelsis syndurunum, var ljós skjært og Ritníngunni samhljóda. Hún taladi ad sonnu mikid um gledi þá og sorg, sem hún í sinni umvendun reyndt hefdi; en hún var þó fullkomliga sannfærd um, ad í sannri trú liggur nockud meira, enn einúngis þánkamátans umbreyting. Hún áleit ad sameining hjartans med Gudi væri falin bædi í því, ad lifa í Christó fyrir trúna, og ad lifa líkt honum í kjærleikanum. Hún trúdi ad kjærleikur Guds til syndaranna, og þeirra kjærleiki í hlýdninni aptur ámóti

til hans, væri óadskiljanliga sameinadir. Í stödugu trausti til hins fyrra, og í stadfastri gjætslu hins sídara leitadi hún og naut þess fridar, sem yfirgeingur allann skilning. Fyrir utan Bibliuna og Sálmabókina, hafdi hún lesid fáar Gudfrædis bækur; en þó þær einar, sem í sjálfum sér ypparligar voru, um hvörra verd hún kunni og svo réttiliga ad dæma. Á andliti hennar sýndi sig einslags folleitur rodmi, sem bodadi ad einhvör tærandi sjúkdómur mundi í henni búa; og þánki sá slaug mér strags í brjóst, ad hún ei mundi mörg ár lifa. Gudi þocknadist líka ad taka hana í burtu, hálfodru ári eptir þetta. Yndisliga eyddist nú tíminn í umgeingni med þessu góda fólki. Eptir þad eg hafdi þegid hjá því nockud þægiligt, til hressingar, þeinkti eg til ad fara heim aptur; en hvörsu skilnadi vorum hafi háttad verid, má næri géti af því undankarna. "Gud leidi ydur farsælliga, Herra! sagdi sú gamla kona, og veri hann lofadur og blessadur, fyrir þad hann sendi ydur til ockar í ockar stóru hörmum! Komid aptur, Herra! komid aptur, ef þér gétid. Eg gét ad sönnu ecki talad mikid vid ydur; en hún dóttur mín gétur sagt ydur, hvad eg meina. Hún er mín ellistod; eg vona Drottinn láti hana lifa til ad veita mér nábjargir, því eg býst vid snart ad fá ad leggjast í þá grof, sem geymir bein minnar ýngri dóttur." Settu þína von á Drottinn, sagdi eg, og minstu hans nádugá fyrirheitis, ad hann eigi vilja gleyma einum í ellinni, þegar hann ordinn er grár af hærum!

Eg þacka ydur, Herra! sagdi þá dótturinn, fyrir ydar christiligann kjærleika til foreldra minna. Eg er fullviss um, ad Drottinn hefur nú verid hér á medal vor, og eg vona ad þér hafid reyndt þad sjálfur í hjarta ydar.

Mínir kjæru foreldrar munu aldrei gleyma komu ydar, og fyrir mína persóna er þad ómetanlig gledi, ad fá ad tala vid einn kénnifodur, sem svo hreinskilinn er í þeim andligu efnum. Ómælanliga gódur hefur Frelsarinn verid mér, sem rickti mér sem brandi út úr bálinu, og hefir vísad mér á lifsins og fridarins gotu. Eg hefi reyndt Guds nádarverkanir í hjarta mínu, og eg óska óaflátanliga ad þessir mínir kjæru foreldrar mættu og í sér reyna Evangelií himneskann huggunarkrapt. Mér sýnist Gud, svaradi eg henni þá, hafa hér berliga efnast látid þad sitt fyrirheit: "Pad skal ské, ad kvøldtíminn skal bjartur verda!" Því trúi eg ogsvo, sagdi hún, og þacka Gudi fyrir þá glediligu von. En eg þacka ogsvo ydur, sem verid hafid medal Guds, til ad færa híngad ljósid. Pá gégndi sá gamli madur: aldeilis er eg víss um, ad Gud mun umbúna kjærleika ydur. Æ bidjid fyrir ockur, ad svo gomul vid erum, og svo stórsyndug sem vid hofum verid, ad vid þó reyna mættum krapt hans nádar, um þá elleftu stundu. Hún veslíngs dóttir ockar, hún hefur mædu fyrir ockur, bædi í tilliti líkama og sálar. Hún erfidar heila daginn, til ad afla ockur uppheldis; en eg er hræddur um, ad hún beri þad ecki af. Hún talar vid ockur, les og bidur fyrir ockur, ad vid verda megum sáluhólpin. Hún er víst gód manneskja, herra minn! Taladú eckért meira um mig! heyrdi eg stúlkuna segja med blygdunarseml. Sídan qvaddi eg fólkid, og sagdi: Fridur sé med yckur og øllu því sem yckur vidkémur. Gud blessi ydur, svaradi fólkid í einum rómi; vér þockum ydur — vér þockum ydur — elskuligi kénnifadir! Eg fór sídan af stad. Á heimferdinni uppkomu í hjarta mínu margar ánægjufullar, og, eg vona, gagnligar hugleidíngar, út af því, sem eg

heyrdt og séd hafdi; og gafst mér þó, vid mína sídari komu til þessa fólks, ecki minni orsök til ad þacka Gudi þar fyrir.

Heilsufari ádurnefndrar stúlku, dóttur þess gamla Dayrmanns, fór hér á eptir þeckjanlīga hnignandi; en því framar sem hún nálgadist sitt lífstakmark, því bjartara vard í hennar sálu. Hennar tal, vidmót og hegdan auglýsti hvílíkrar sælu hún naut, í sinni andligu umgengni med Drottni. Til ánægju lesurum mínum edur heyrurum, vil eg aptur meddeila hér eitt bréf, hvort eg, mér til stærstu gledi, medtók, nærri einu ári eptir mína ádursögdu komu til hennar, þá eg var í þeim kríngumstædum, sem lengi hofdu hindrad mig frá, ad heimsækja hana aptur ad nýu. Þetta bréf vekur hjá mér endurminníngar þeirra uppbyggiligu stunda, er eg hafi hafdi af samtali vid hana og foreldra hennar. Þad málar fyrir mér þá gudhrædslu, sem stundum finnst í kotum þeirra fátæku, og flytur þánka mína til þess gledifulla dags, þá sannhelgra sálir aptur sameinast skulu, sínum forklárudu líkomum, til þess ad vera hjá Drottni eylífliga. Aldrei hefur hún hugsad, þá hún ritadi bréf þetta, ad þad mundi gjorast þjódkunnugt; en þar sem þad sýnir, hvad sannur Gudsótti og lifandi trú, hjá einni manneskju í hennar standi kann ad verka, þá vona eg ad rit þetta verdi ánægjufullt ollum þeim, sem eptirlæti hafa af, ad skoda Gudhrædsluna, hvar hellst sem hana er ad finna.

Velæruverdugi Herra!

Eptir ydar géfna leyfi tek eg mér fríheit þau, ad skrifa ydur til, hversu ótamt sem mér þó er ad halda á pennanum. En eg er viss um, ad þér hafid svo mikid af ydar meistara kjærleiksfullu hógværd, ad þér styggist

ecki vid mig, hvorsu fátæk og fáfróð sem eg er, nær þér finnið adeins nockurt gott og hreinskilið augnamið í bréfi mínu. Eg óska mér einkis stærri hlutar, enn að eg, sem breiskt nádarinnar kér, géti vegsamað Guðs nafn og gjæðsku hans vid mig. Því fyrst eg veit, ad eg er eckért, enn Gud er allt, kann eg med gledi, að taka mitt tilflugt til hans; og segja: "Drottinn hjálpa þú mér! Drottinn, kénn þú mér! Vertú minn Spámadur, minn ypparsti prestur og minn konúngur! Kénu mér ad skilja vilja þinn, og smacka hvad kjærleiki þinn er sætur! Hvad þurfum vér ad óttast, ef vér lifum í Gudi! Í samfélagi med kjærleika Guds, kann oss eckért ad bresta. Hann, er, hefur verið og mun verda! Þetta er hans allra tilbeidsluverdasta nafn! Englarnir falla med audmjúkustu lotníngu nidur fyrir honum og tilbidja hann. Svo óverdug sem eg er, hefi eg þó af reynslunni fundið, ad þess betur sem eg læri ad þeckja stærð og djúp Guds nádar, þess audmjúkari verdur sála mín. Hvorn dag hlýt eg ad sonnu ad vidurkénna og segja: Æ Drottinn, hvorsu lítt elska eg þig! hvorsu mikið brestur mig til ad lifa í þér; hvorsu litt er eg þér lík í audmýktinni! Eingu ad sídur elur hjarta mitt þá óaflátanligu laungun, æ meir og meir ad elska Gud og þjóna honum. Í kyrkjunni nýtur hjarta mitt stakligrar blessunar. Guds ord er farvegur sá, ígégnum hvorn ad Guds nádar ríkdómur streymir inní minn ódaudliga anda. Von sú, ad verda hluttakandi í hans velgjorníngum upplyptir sinni mínu, og eg vegsama hans nád vid mig, sína allra syndugustu sképnu. Midt í útvortis mótlæti bid eg, ad eg mætti þeckja Christum, og reyna krapt hans upprisu í sálu minni. Ef minn vilji gjæti alltíd ofurgéfid sig

róliga undir Guds vilja, gjæti eg med undirgéfni tekid á móti ollu sem hans nádarrika forsjón tilsendir mér, þá skyldi eg upphrópa og segja: Gódur er Guds vilji! hans óendanliga vísdómi kann aldrei yfir ad sjást! En æ, synd og ótrygd nidurbrjóta opt — já, svo ofur oft — þessar ástædur vonar minnar, svo eg med hrygdartárum kasta mér nidur fyrir fætur Guds. Hvílík lucka væri mér þad, hugsa eg, ef kjærleiki hans væri svo rótfestur í hjarta mínu, ad eg fúsliga og med gledi gjæti hlýdt honum; ef eg smámsaman gjæti betur og betur deydt minn eiginn vilja, sjálfselsku og hofmód! En þetta gétur ecki skéd, nema fyrir heilags Anda nádarverkun, svo ad vér, fyrir Jesú dýrmæta blód, verdum hreinsadir af syndum vorum, og gjorunst nýar sképnur í Christó. Æ minn Herra! opt er trú mín ysrid veik! viljid þér vera svo gódur ad segja mér, hvar séu þau bestu medol til ad styrkja hana! Eg veit, ad Frelsarinn segir med berum ordum: trú þú ad eins, og muntu hólpinn verda! allt er þeim moguligt, sem trúa! O, ad eg gjæti burturýmt úr hjarta mínu ollum þeim fjollum, sem hindra ljós Guds nádar frá ad skína inní sálu mína, til ad géta haft fullann adgáng til hans, fyrir hans blessada Anda. O hvílíkann kjærleika hefur Gud audsýndt oss syndugum ormum! og þó moglum vér — þó qvortum vér. Gud má vel segja til vor: hvad skal eg gjora þér meira gott, enn eg gjordt hefi? Hefi eg ecki audsýndt kjærleika og trúfesti, mínum trúlausu og fráfollnu bornum? Eg óska af ollu hjarta, ad eg aldrei módgadi Frelsara minn framar! æ aldrei framar! Æ eg hefi stóra þorf á ydar rádleggingum, og fyrirbænum í þessu tilliti! Eitt trúfast rád frá þeim sem elskar Gud og ber hans mind, gétur hresst sálina og gjordt hana róliga.

Og ef það gétur verið svo yndisligt, að tala við sanntrúaðar manneskjur hér í heimi, hvørra hjarta til himins upplypt er, hvörsu sætt mun þá samnevti og samtal útvaldra á himnum verða, hvar vér eylífliga sjá munum Guð í Jesú Christó, hvar að er ljómi Føðursins dýrðar og ímind hans guðdómligrar veru! O þann gleðiliga dag! Eg þacka ydur, Herra! fyrir það leyfi sem þér gáfuð mér, að meiga skrifa ydur til, hvört eg nú, svo feiginn nota mér, og finn þarí einslags lækniśmeðal fyrir minn sorgbitna anda, að meddeila ydur svoleiðis mína þánka. Heilsufar foreldra minna, er einsog það er vant; en það gleður mig hjartanliga, að eg sé þau dagliga þróast í þeckíngu og kjærleika Jesú Christí. Mitt líf er mér ánægjusamt fyrir þeirra sakir, en þó heilsu minni fari dagliga hnignandi. Ockur lángar ollsaman mjøg inniliga eptir, að fá hið fyrsta að sjá ydur hér á ockar heimili. Má eg þó skammast mín að láta þá ockar ósk í ljósi, sem erum svo auðvyrðilig hjá ydur. En ef þér gétið ecki komið, þá gleðjið ockur samt með einni línu! Furðið ydur nú ecki á því, Herra! þó eg skrifi svo illa. Eg féck aldrei að læra það meðan eg var úng; en nú er eg orðin ofveik og vesæl, til að byrja að læra það. Það gleður mig stórum, að eg heyri, hvørsu að í ydar søfnuði skuli finnast ýmsar af alvøru umvendtar sálir; og víss er eg þess, að það er líka stór gleði sjálfum ydur; því hvört embættis erfiði gétur heilagra og háleitara verið, en að erfiða til Guðs dýrðar og til eylífs sálar frelsis fyrir mennina? Þér þjónið einum góðum húsføður! umbún hans mun ydur eigi bresta! Guð styrki ydur þar til og blessi! Eg hefi að bera kjærleiksfulla kveðju foreldra minna til ydar.

**Elísabet Dayrmanns dóttur.**

Í þessu bréfi finnur nú hvör sá sem það les og yfirvegar, þann sanna spegil hugarfars og þánkamáta, þeirrar áminnstu stúlku. O, að þess lesendur og heyrendur vissu að dæma þarum í Christi kjærleika, þá mundu þeir ecki sjá eptir þeirri stundu, sem þeir eydt hafa til þess yfirvegunar!

## Þriðja atriði.

Almennast geingur það svo til, að þegar menn reisa um eitt hérað eður landspláts, að þeir heldst vilja heimsækja þá ríku og meiri háttar, hvar menn vænta sínum ytri skilníngarvitum, augum eyrum og gómi meiri ánægju, enn í kotum þeirra fátæku. Þar verða sumir sig varla til inn að líta. En það getur þó skéð, að þann ríkdóm og þau gjæði sé þar að finna, hjá hvörjum öll veraldar vegsemd og ríkdómur er hégómi einn og reykur að reikna. Opt ber það við, að þar er að finna þá dýrmætu perlu; er einn matti svo mikils, að hann seldi allt hvað hann átti, til að géta eignast hana; en hennar melga menn opt forgéfins leita, í höllum þeirra ríku. Þessi perla er Jesús Christur, með trúnni meðtekinn. Hvar heldst þessvegna, sem sönn og fölskalaus Guðhræðsla finnst, þar er og vissuliga perla þessi; og fyrir hana eru þeir fátæku einna meðtækiligastir, að vitni hans, sem valdi sér framar fátækra kjör enn ríkra, þegar hann umgéckst hér á jörðu, og gjörði tilboð til sín að koma öllum þeim sem erfiði drýgja og þúnga eru þjáðir. Svo þá meigum vér með forundrun sjá rætast orð hans, sem er hár og hátt upphafinn, sem eylífliga býr, og hans nafn er heilagt; hvor eð seigist (Es. 57, 15) vilja búa hjá þeim, sem hafa sundurmarinn og

audmjúkann anda. Já þó ad himininn sé hans stóll og jørdin hans fótaskør, segir hann þó sjálfur: "til hvers skal eg líta, ef ei til þess, sem voladur er og hefur sundurknosad hjarta og óttast mín ord", (Es. 66, 1. 2), og mun ecki þesshátar fólk heldst vera ad finna í hóp þeirra fátæku, forsmádu og mótlættu? Þar má opt segja med Jacob: "Gud var í þessum stad og eg vissi þad ecki." Ad komast í andlig kynni vid þesshátar manneskjur er þúsundfaldt dýrmætara, enn umgeingni med holdliga sinnudum veraldar vitríngum og maktarmønnum. Slíkt féck eg sjálfur ad reyna í mínum vitjunum til húsa þess fátæka Daxmanns. Nockrum sinnum eyddi eg ánægjufullum stundum hjá því sama fólki. Fljótt vard eg þess var, ad heilsufari dóttur Daxmanns hnignadi dag frá degi. Øll merki til tærandi sýki sýndu sig ljósliga á henni, og bodudu, ad líf hennar mundi ei lángvinnt verda. En þvílikir sjúkdómar, sem hóft og hóft tæra lífinu, gefa mørg gód tækifæri einum trúfostum kennifødur, edur ødrum christiliga sinnudum vini, til ad vekja eptirþánka hinna sjúku, í tilliti þeirra eylífu velferdar. En slíkt umhøndlunar-efni þurfti ei ad vekjast fyrst, undir sjúkdóminum, hjá þeirri ádur áminstu gódu manneskju, því þad var allareidu af Gudi hjá henni vakid, ádur enn sjúkdómur hennar tók yfirhønd. Vid ad heimsækja hana ávann eg fyrir mitt embætti og hjarta jafnmargar nytsamligar hugvekjur og lærdóma, einsog eg sjálfur var fær til ad meddeila henni. Hún gjørþeckti allt dýrmæti og samheingi Jesú lærdóms, og þessvegna var samtal hennar yfrid uppbyggiligt. Einn dag féck eg frá henni fylgjandi línur:

Kjæri Herra! mikil gledi væri mér þad nú, ef þér gætud til mín komid, einnar sárliga ángurblitinnar og

syndugrar sképnu. Mitt tímaglas er snart útrunnid. Æ eg flý til míns blessada Frelsara. Ydar samtal hefur opt verid mér til blessunar; en nú þarf eg ydar uppbvatnínga og ráda vid, framar enn nockurn tíma ádur. Fadir minn og módir heilsa ydur hjartanliga!

Elísabet Dayrmanns d.

Á sídari parti híns sama dags uppfyllti eg ósk hennar. Þegar eg kom til bæarins mætti mér sú gamla kona í dyrunum. Tár dundu af augum hennar, og henni var mikid þúngt; hún taladi ecki eitt ord; hún reyndi til þess, en gat þad ecki. Tók eg þá í hönd hennar og sagdi: mín kjæra vinkona! hvad vísdóms og nádarinnar Gud gjörir, er allt gott, þó vér ecki strags gétum merkt þad. Konan svaradi þá: Æ hún Lísa mín! hún mitt góda barn! hvörnig ætli fari fyrir mér, þegar hún er í burtu? eg hugsadi eg mundi fá ad komast í grofina, undan henni. En — — Eg svaradi: en þad þócknast vorum Herra, ad þú skulir, ádur enn þú sjálf deyr, fá ad sjá þitt elskada barn verda luckuligt, og komast heim í ríki dýrdarinnar. Er ecki nád í því falin? Hún ansadi: jú, en þetta barn var þó mín einasta stod í elli minni. Eg géck svo inn og fann Elísabet sitjandi á stóli nærri eldinum, med öllum þeim merkjum, er sýndu, ad daudinn var ecki lángt í burtu. Hún mælti: mikid gódur vorud þér nú, Herra minn! ad koma sona fljótt; eg finn nú á mér, ad minn lífstími verdur ecki lángur hér eptir. Holdid er veikt, hjartad ístödulítid; en eg leita þó ad eins hjá Jesú hjálpar og styrkleika. Ockar eptirfylgjandi samtal hindradist af þeim hósta og andþreyngslum, sem hún hafdi. En midt í því lét hún þó í ljósi, med sömu alvörugéfni, þánka sína, og kraptur Guds nádar sigradi bersýniliga vanmætti náttúrunnar.

Eg sagdi þá til hennar, eptir það eg hafdi sett mig nidur midt á millí mædgnanna: Eg vona þú efist ecki um Guds adstod, heldur varpir allri þinni áhyggju uppá hann, sem híngad til hefur vardveitt þig, á öllum þínum vegum, og sem leida vill þig til dýrdarinnar lands, í hóp sinna útvöldu og heilagra eingla. Stúlkan svaradi: eptir þessari huggan leita eg; en hjarta mitt hefur nýliga verid ofurþúngt haldid; hvad eg eigna má sumpart veikindum líkama míns; sumpart míns sálar óvinar freistíngu, sem vill innprenta mér, ad eg dragi mig sjálfa á tálar, med ad reida mig uppá Guds kjærleika. Eg ansadi henni þá: En eg vona þú gésir þó ecki þessum efamálum rúm; eda hugqvæmast þér ecki þau óteluligu merki Jesú miskunar, sem þú reyndt hefur, bædi á umlidnum og nærverandi tímum? Hún svaradi: vist ætti mér slíkt í hug ad koma. Eg ætti ecki ad auka mínar syndir med ad neita hans opinberu umhyggju fyrir sálu minni. Slíkt vil eg alltíd vidurkénna, honum til dýrdar og æru. Eg sagdi þá til hennar: En hvört álit hefur þú nú um þitt fyrra ástand, nl. ádur enn nád Guds umvendti þér? Hún svaradi: eg var sérþóttafull og þánkalaus manneskja, sem hugsadi einúngis um ad gedjast mönnum, gésin fyrir klædnadar prjáli og skrauti. Eg elskadi heiminn og þá hluti, sem í heiminum eru. Eg var lika í þjónustu hjá þeim húsbændum, sem algjörliga heimsinnadir voru, héldu einga regluliga hússtjórn, og enn sídur hyrdtu par um sálar ástand hjúa sinna. Eg fór ad sönnu stundum til kyrkju, framar til ad láta sjá mig og sjá adra, enn til ad bidjast fyrir og heyra Gudsord; því um mína sálar velferd efadist eg aldrei, og eg gjordi gis ad þeim, sem mikla áhyggju báru fyrir trú sinni. Sála mín var umkríngd af and-

ligu myrkri, og þeckti ecki veg sáluhjálparinnar réttiliga. Ad leita Guds af alúd med bæninni, hafdi eg aldrei lagt í venju mína. Eg stundadi einúngis eptir, ad vera álitin fyrir stickanliga stúlku; og þad var mér mikid kjært, þegar adrir hældu mér. Í minni ytri hegdun var eg ogsvo, fyrir mönnunum, sæmiliga sidsöm, en framandi var eg frá Gudi og Kristó; og eg húgsadi aldrei neitt um sálu mína; svo hefdi eg á þeim tímum dáid hefdi eg visfuliga eyliliga fordæmd ordid. Eg spurdi hana þá: hvörsu lángt er sídan þú heyrdir prédikun þá, sem þú hefur sagt mér, ad verid hafi fyrir Guds nád, medal til þinnar umvendunar? Stúlkan svaradi: Þad eru nú hérum fimm ár sídan. Eg spurdi þá: hvad kom til þess, ad þú gékkst þá í kyrkju? Hún svaradi: Þad fréttist, ad einn prestur, sem sendast átti til framandi landa, en hindradist sökum byrleysis ad komast af stad, ætti ad prédika í kyrkjunni. Margir rédu mér fast frá ad fara til kyrkjunnar, því þeir sögdu, ad prestur sá kynni ad gjöra mig galda og sinnisveika, þar hans prédikunarmáti væri þessslags. En nýúngagirni, og laungun til ad skarta med einum nýum klædnadi, sem eg rétt nýliga eignast hafdi, dróg mig til ad bidja húsmódur mína um leyfi til ad fara. Og eingann betri tilgáng hafdi eg til þeirrar kyrkjuferdar, enn eg sagt hefi, jafnvel þó Gudi þócknadist ad láta annad þaraf fljóta. Þegar eg nú kom þángad, sá eg mikinn fólksfjölda samankominn, og opt hugsa eg til þess, hvad ólíkt mitt hugarfar var, vid byrjun Gudsþjónustu þeirrar, og vid hennar endalykt. Um augnamid þvílikrar Gudsþjónustu húgsadi eg fyrst eckért, heldur var ad skima í kríng um mig; og þócktí vænt um, þegar adrir horfdu á mig. Búníngur minn, einsog margra annara vinnustúlkna,

var mikid yfir mitt stand. Texti sá sem presturinn lagdi útaf, voru þessi Postulans ord: "verid skrýddir audmýktinni!" (Col. 3, 12). Hann gjørdi sídan samanburd á klædnadi líkamans og sálarinnar. Strags sem hann tók ad tala um þetta, fann eg med sjálfri mér til nockurrar blygdunar, útaf mínu fáfeingiliga skrauti. En þegar hann tók ad útmála þann sáluhjálpliga klædnad, med hvørjum einn christinn madur ætti búinn ad vera, tók eg stakliga ad sjá og finna til nakleika sálar minnar. Eg sá, ad hvørki hafdi eg þá audmýkt, sem textinn taladi um, ecki heldur neitt annad þess, er tilheyrdi sannkristnum manni. Eg horfdi á minn klædnad og blygdadist yfir mínu stæriláta sinni; en undireins horfdi eg á prestinn og áleit hann sem himneskann sendiboda. Eg þeinkti um ástand hjarta míns, og fann þad fullt af synd og vondsku. Tal prestsins gjørdi mig ángurbitna, og eg hræddist þad ad vísu, en fýsti þó ad heyra þad, og jafnvel voru øll hans ord mér mikilvæg. Hann hrósadi Guds yfirgnæfanligu nád, og adferd hans ad frelsa syndarana. Nær eg rendi nú þaunkum mínum til míns lidna lífernis, féll eg í felmtrun og hrædslu. Hann útmáladi, hvad Christur hefdi verid hógvær og audmjúkur, en eg fann eckért hjá mér, utan dramb, stærilætl og hégómaskap. Hann setti Christum fyrir sjónir, svo sem géfinn oss til vísdóms, en eg fann, ad eg hafdi eckért annad í mér, nema andliga fávitsku og blindni. Hann taladi um hann, svo sem géfinn oss til réttlætis, en eg var sannfærd um mitt ránglæti og sek fyrir Gudi. Hann sannadi, ad í Christó lægi helgunin, en eg fann eckért annad enn tóma spillíngu og vondsku í fari minu. Hann úthrópadi Christum sem heimsins Frelsara; en eg komst ad raun um,

ad eg ennnú var føst undir syndarinnar þrældómsoki. Hann álykkadi svo prédikunina med áminníngu til syndaranna, ad flýa þá tilkomandi reidi, ad afleggja elskuna til þess hégómliga, en þar á móti til ad íklæðast Christó, og med honum þeirri sonnu audmýkt fyrir Gudi og monnum. Allt í frá þeim tíma, eg heyrdi prédikun þessa, hefi eg aldrei sjónir mist á dýrmæti sálar minnar, og hvílíkur háski henni búinn væri, vegna míns syndsamliga ástands; eg þackadi Gudi af ollu hjarta fyrir prédikun þessa, jafnvel þó stór órósemi byggi í hjarta minu. Prédikarinn hafdi aldeilis hitt uppá þá drottnandi tilhneigíngu hjarta míns, sem var einslags stærilæti og hégómligt klæda-prjál; og þetta vard, fyrir Guds náð, medal til ad vekja mína sálu til alvarligs eptirþánka og umhyggju. Mesti partur tilheyrendanna, óvanur vid ad heyra prédikanir svo fullar af Bibliunnar anda, mislíkadi hún, og stygdust vid prédikarans alvarligu áminníngar. En nockrir urdu þó, sem eg sídar frétti, hrærdir af henni, einsog eg, og æsktu ad heyra þennan prédikara aptur, en hann prédikadi þar aldrei framar.

Nú vard eg eptir þetta, fyrir ydugliga bæn til Guds, med lestri Guds ords og eptirþánka, æ betur og betur sannfærd um mitt synduga ástand, og þeckti nú fyrst réttiliga, hvad þad er, ad vera syndari; en eg lærdi egsvo ad þeckja stærd Guds nádar í Jesú Christó. Í honum, mínum Jesú, hefi eg fundid allt hvad mig brestur; hjá honum hefi eg notid athvarfs móti samvitskunnar áklogunum og syndarinnar fordæmandi krapti, og hans blessad ord er minn rádgjafi móti vantrú og efasemi.

Þá sagdi eg til stúlkunnar: varstú nú ecki sann-

færd um það, að þín frelsan væri einasta komin undir Guðs náð, en hángyði ekkért af þínum undanfornum verkum og forþénustu? Stúlkan svaraði: hvað voru mín verk, áður enn eg heyrði sagða prédikun — hvað annað enn syndarinnar, holdsins og sjálfselskunnar verk? Mínir hjartans þánkar hafa verið, — einsog Ritníngin segir — vondir, allt í frá barndómi. Og hvaða forþénusta kann að finnast í einni ramspilltri, og af Guðs og náúngans kjærleika ørsnauðri sálu, sem hvorki skeytti fyrir Lögmálið né Evangelium? Eg sé það undir eins, að ef eg á að frelsast, hlýtur það að ské einúngis fyrir náðina, og ekkért annað. Eptir þetta sagði eg til hennar: hvør umbreytíng skéði nú í hegðun þinni hið ytra, í tilliti þess jarðneska? Hún svaraði: allur sá hégómi, sem áður hafði verið mér til ánægju, varð nú til plágu sálu minni. Til að øðlast sálarfrið, var þessvegna nauðsýn fyrir mig, að skilja mig við heiminn. Bæninn varð nú mín óaflátanlig og ýndisligasta yðja, og í róligri umgéngni með Guði hefi eg notið margrar sællrar stundar. Opt hefi eg verið ángurbitin út af syndahormúngu minni, opt hefi eg haft að stríða móti vantrú og ótta, og móti freistíngu til að snúa mér aptur til míns gamla athæfis, og móti ýmsri annare torveldni, sem mér mætt hefur! En hann, sem elskaði mig, svo að hann dó fyrir mig, hefur umborið mig með þolinmæði, sýndt mér friðarins veg, og kénnt mér, að jafnvel þó eg orki eingann hlut án hans, þá megni eg samt alla hluti fyrir hans krapt. Þá sagði eg til hennar: Hefur nú ekki mørg útvortis torveldni mætt þér, síðan þú tókst þessa umbreytíngu í þánkamáta þínum og hegðun fyrir þig? Hún svaraði: jú vissuliga, minn Herra! sumir hæddu mig, sumir formæltu mér. Óvinirnir forsmáðu mig,

en vinir mínir hlóu ad mér. Eg var kollud hræsnari, helginunna, vitfyrríngur og fleiri nofnum. En ellum þessum brixlyrdum tók eg med þollyndi ámóti, og taldi þau mér til sóma, þar eg leid þau fyrir réttlætisins sakir. Eg fyrirgaf mínum forsmánurum og bad fyrir þeim, og lét mér til hugar koma, hvorsu eg fyrir skemmu hefdi gjordt þad sama odrum. Eg setti mér fyrir sjónir, ad Christur hefdi sjálfur mátt margar mótsagnir af syndurunum lída; og þar eg vissi, ad lærisveinninn má vænta sér þess sama, sem meistarinn, gladdi eg mig yfir ad lída þad sama sem hann leid. Nú spurdi eg hana framar: mættir þú ecki þessu líka svo heima af naúngum þínum? Hún svaradi: ó jú, einginn þeirra hafdi sama þánka sem eg. En eg bad óaflátanliga fyrir þeim, og leitadist vid ad gjora þeim allt gott, sem eg gat. Foreldrar mínir, sem voru mjog til ára komin, en ofurfásfród og hyrdulítil í Christindómssokum, láu mér einkanliga á hjarta. Þegar módurin heyrdi þetta, stundi hún þúngann, gégndi fram í talid og sagdi: Æ þad er satt! vid vorum fáfród og géngum í myrkrum syndanna, allt til þess ockar kjæra Lísa — þad góda barnid — færdi Jesúm Christum híngad til sinna vesælu foreldra. Þá svaradi dóttir hennar: segid ecki svo, módir gód! segid heldur, ad Jesús Christur færdi yckar vesælu dóttur heim til yckar, til ad segja yckur frá hvad hann hefur gott gjordt sálum yckar og hennar. Í þessu sama bili kom fadirinn ad, og heyrdi í dyrunum, hvad kona hans og dóttir sogdu: Gud blessi þig, Lísa mín! sagdi hann þá; þú fórst úr gódri vist heim til ockar foreldra þinna, til ad hjálpa uppá óckur, bædi til líkama og sálur. Sýnist ydur ecki, Prestur minn! hún líta ofur sjúkliga út? Eg held vid fáum ecki ad halda henni leingi hjá ockur? Þá

gégndi Elísabet frami og sagdi: Géfid Gudi þad á vald, fadir minn! allir vorir tímar eru í hans hendi; og þad er lucka vor, ad þeir eru þad! ánægd er eg ad deya; erud þér, fadir gódur! ecki líka svo ánægdur med þad, ad eg fari til hans, sem gaf mig ydur í fyrsta? Því ætli eg sé þad ecki, barn mitt, spurdu mig ad ollu ødru, svaradi fadirinn grátandi, gjøri Gud vid þig og ockur, þad sem honum þóknast! Eg spurdi þá stúlkuna framar: hvad þad væri einkum, sem yki henni hughreysti og huggun, þar hún væri daudanum svo nálæg? Hún svaradi: ó einúngis, einúngis mitt tillit og traust til míns Frelsara! Þegar eg horfi á mínar morgu syndir, bresti og breiskleika, finn eg ad sonnu eckért nema sorgarefni, sem hrædir mig. En þegar eg horfi til Christum byrtir aptur fyrir augum mér, og minn andi tekur þá ad gledja sig í Gudi sínum Frelsara. Eg hugsa til hans sem manneskju, og þá veit eg ad hann skilur, hvad þúngar mínar líkama þjáníngar eru, og ad hann kénnir í brjósti um mig. Eg þeinki til þeirra freistínga sem hann leid, og þá veit eg, ad hann, sem þær reyndt hefur, vill og gétur hjálpad mér í mínum. Eg þeinki til þess kross sem hann bar, og læri svo ad bera minn eiginn. Eg hugsa til hans, í hans dauda, og þad vekur hjá mér laungun og ástundun ad deya frá syndinni og hennar yfirdrottnun. Stundum þeinki eg til hans upprisu, og finn ad hann hefur géfid mér hlutdeild í henni, þar mínir þánkar hneigjast svo til himneskra hluta. Og þegar eg hugleidi, ad hann situr vid Guds hægri hønd, veit ég ad hann leggur til med mér; og þad styrkir mig í þeirri von, ad mínar veiku bænir fyrir mér og mínum náúngum, muni bænheyrdar verda. Þessar eru nú íminðanir mínar um míns Frelsara gjædsku; og eg óska,

í því litla eg megna, að þjóna honum og ofurgéfa mig að øllu leiti í hans vald, og að uppfylla, svo vel sem eg kann, skyldur mínar, í því standi, sem Guð mig setta hefur. O þúsund þúsundsinnum hefði eg fallið, ef hann ekki hefði hjálpað mér. Eg finn, að eg megna ekkért án hans; hann er mér allt í øllu; þess betur sem eg gét varpað áhyggju minni uppá hann, þess meiri styrk fæ eg til að gjøra hans vilja. Æ að hann géfi mér náð til að treysta sér, allt til míns síðursta augnabliks. Dauðanum þarf eg ekki að kvíða, fyrst hann hefur hans brodd afbrotið. O hvílíka farsæld hefur hann fyrirbúið mér. Segið mér nú hreint út, minn Herra! ef þér haldið að mín meiníng ekki rétt sé; kannské eg á einhvørn hátt dragi mig sjálfa á talar. Minn eiginn hjartans dóm mistreysti eg alvarliga; en af því Christur hefur lofað að styrkja mig og sáluhólpna að gjøra, þá vil eg hvørki efast um mátt hans né vilja þartil. Eg er í hans høndum; eg vil ogsvo líka vera það. Eg hugga mig við það, að hann ekki muni yfirgéfa mig, heldur fullkomna það verk sitt í mér, sem hann uppbyrjað hefur. Í þeirri von lifi eg, og í þeirri von vil eg deya! Á meðan hún héldt nú á tali þessu, leit eg íkríngum mig, þeinkti sem Jakob: "sannarliga er hér Guðs hús; hér er port himinsins!" já allt sem eg sá íkríngum mig, syndist mér sem minna mig á það. Kvøldsólarinnar geitslar uppljómuðu húsið, og skinu á nockur prentuð bløð er þar héngu, hvør eð minntu á fæðíngu, skýrn, krossfestíngu og upprisu Christi, og líka nockur málverk, sem bendtu til heilags efnis og hugleiðínga. Allt var þar umbergis, sem sýndi að sønnu fátækt, en þó lifandi guðhræðslu, og addáanliga ræklusemi. Þeir yndisligu geitslar þeirrar til niðurgaungu

hallandi sólar, minntu á þann úthallanda lífsdag þessarar guðhræddu manneskju, hvern réttlætis sólin Jesús Christur uppljómaði svo dæiliga með geislum sínum og glansa. Eptir það eg hafði síðan fátt við fólkið fleira talað, sleit þessu voru yndisliga samkvæmi, að framinni stuttri bænagjörð. Síðan reið eg heim á leið, þaðan í burtu. Sólin, sem eg sagt hefi, hraðaði sér til undirgaungu; ell náttúran sýndist búa sig til hvíldar. Búsmalarnir voru allstaðar reknir til haga, og bældu sig sumir í því græna grasi. Og þó að nockur sjóarfalls suða, dagfuglanna síðarsti saungur, og náttfidrildanna ýmur, dyndi nockuð að eyrunum, hindraði það eckért, heldur jafnvel á sinn hátt, lífgaði, þær tilfinningar, sem vakist höfðu áður í hjarta mínu, af samtali og samkvæmi með því áður áminsta fróma fólki. Náttúrunnar skoðunarpláts — athugað af eins sannkristins manns auga — getur látið náðarríkisins skoðunarefni, sem innifalin eru í Guðsorði, verði að lífligri og dæiligri, enn ella. Sælir erum vér, ef vér miðt í náttúrunnar skoðun kunnum að upplypta þess heitara sálu vorri til skaparans, sem viðheldur bæði þeim andliga og og náttúrliga heimi; svo náttúran verður manni sem eitt port, ígégnum hvört hann geingur inní Guðs náðar helgidóm, og lærir svo að tilbiðja af ellu hjarta mannkynsins skapandi Frelsara, og frelsandi skapara, í persónu Guðs Sonar, í hverjum að ljómar Guðs dýrð, og speigill hans guðdómligu veru, skýn með skjærasta og fullkomnasta glansa.

## Fjórða atriði.

Glediligt er til þess að hugsa, að miðt í því hræðiliga andliga myrkri, sem í heiminum sýnist drottna,

finnast þó hér og þar smærri og stærri ljós, sem midt í þessum myrkrum skýna. En mjøg misjafnt er kríngumstædum þeirra varid, sem þessa andliga ljós náttúru inndruckid hafa; sumir verda svo dagliga ad velkjast innanum adra, sem myrkurin elska, ad hinir eiga yfrid torsókt med, ad gjæta svo ad sínu litla ljósi, ad þad ecki slockni af þeim stormi hneigslananna, sem af hinum stendur. En þess stærra, sem þeirra strid er, þess frægri verdur og þeirra sigur, ef þeir trúir reynast allt til daudans. Nú þó Christindómurinn ecki bjódi oss, ad yfirgéfa mannligt félag, og almenniligar sýslanir hans vegna, verdur samt ecki neitad, hvad sá hentugleiki, ad géta lifad út af fyrir sig, géfur manni betra tækifæri til ad yfirvega — þeim sem annars til slikra yfirvegana hneigdur er — hvad til hans andliga og eylifa fridar heyrir, helduren ef hann dagliga velkjast hlýtur í solli og samkvæmi heimsins barna, sem leitast vid ad kéfja þad góda sædi, bædi hjá sjálfum sér og ødrum. Svo géck þad til fyrir þeirri Gudsmanneskju, sem þessi saga frásegir: ad, enda þó þad andliga lifid vaknadi í henni, þegar hún enn-nú hlaut ad hafa umgéngni med heimsliga sinnudum, styrktist þad þó og efldist dásamliga, eptir þad hún gat betur skilid sig vid heiminn, og farid aptur heim í þad fámenna samkvæmi foreldra sinna. Þar voru ad sønnu fáir sem þecktust hana, og þad ljós og lif, sem Drottinn hafdi í henni kveikt; en samt er þó víst, ad hún vard þar til stórrar uppbyggíngar, bædi foreldrum sínum, og øllum sem hún hafdi nockud vid-adsýsla. Allt í frá þeim tíma, sem eg, eptir ádurségdu, kom til hennar, ímindadi eg mér ad vísu, ad endalykt hennar mundi ecki fjarlæg vera, en óvænt kom mér þad

þó, ad fá svo fljótt, sem eg fék, ávísun um það, ad hún nærstum því ad fram komin væri.

Þessi fregn barst mér af einum soldáta, hjá hvörjum eg vard var vid góda skynsemi, hreinskilni og Gudsótta. Eg er sendur til ydar, sagdi hann vid mig, frá foreldrum Elísabetar Daprmanns dóttur, sem óska ad sjá ydur hid snarasta. Eg héld ad stúlkan, sé enn-nú naumast lífs, svo sáraum var hún ordin. Eg sagdi þá til hans: hefurdú leingi verid henni kunnugur? Hann svaradi: hérumbil mánadartíma. Eg heimsæki gjarnan þessa sjúku manneskju, eptir það einn af nágrönnum hennar hafdi talad um hana fyrir mínum eyrum. Og eg þacka Gudi fyrir það, ad eg fór ad koma til hennar. Þær komur hafa verid yfrid nytsamligar fyrir mig sjálfann. Það gledur mig — sagdi eg þá til hans — ad sjá, ad þú ert einn sannur Christindóms bródir. Eg skal gjarnan fara med þér. Svo var hestur minn snart reidtýadur, og soldátinn géck med hestinum, og uppbygdi mig med sínu tali. Hann sagdi mér frá morgù ypparligu samtali, er hann átt hafdi vid stúlkuna. Hún er einn skjær edalsteinn, sagdi soldátinn, og mun innanskams verda skjærari enn nockur edalsteinn á jardríki. Vid héldum svo áfram; en þánkinn um daudann, eylífdina og sáluhjálp þeirra trúudu, er bída síns lausnartíma, þessi þánki uppfyllti mitt og míns fylgdarmanns hjarta; og samtal ockar um slíkt efni, stytti fyrir ockur tíma reisunnar. Þegar vid komum nú nálægt bænum, rann hundur Daprmanns móti ockur, og gélti nú ecki ad mér, einsog hann var vanur, rétt eins og hann tæki hlut í þeim tilsinníngum, sem drottnudu í hjarta húsbónda hans, og vildi því gjera sem minstann hávada af sér,

edur sem áminnti ockur að fara hægt og stilliliga. Eg tók síðan opnar bæardyrnar, en sá eingann, og allt var þeigjandi. Soldátinn fylgdi mér, og við komum allt að tröppunum, sem láu upp í húsið. Heyrði eg þá raustu bóndans þar inni, sem sagði: þeir eru komnir! þeir eru komnir! Hann kom svo móti ockur; tók eg þá í hönd hans og heilsaði hönum. Þá eg kom upp í sængurhúsið, sá eg þar hina öldrudu móður og son hennar, sitjandi hjá rekkju sinnar sjúku dóttur og systur. Sonarkonan sat þar við glugga, héldt á barni sínu í kjöltu sér, og var að gráta. Tvær eður þrjár persónur aðrar voru þar komnar, til að auðsýna kjærleiks þjónustu, þessu mótlætta heimili. Eg setti mig svo niður hjá rúminu. Móðurinn gat ecki grátið, en mændi augunum stundum á sína sjúku dóttur og stundum á mig. Tár dundu ofan eptir bróðursins andliti. Faðirinn studdi höfði sínu upp við sængurstoðina, og gat ecki tekið augun af sinni elskudu dóttur, sem hann vissi að innanskamms átti við sig að skilja. Elísabet smábrosti og varð ecki vör við ockur. En útaf hennar bleika og náfölu andliti framlýsti þó sú sálarinnar kyrð, sem kémur af þeim friði Guðs, sem æðri er öllum mannligum skilníngi. Eptir litla málhvíld, tók soldátinn upp Bibliu, og bendti á 1 Cor. 15, 55—57. Eg sleit þá þögnina, og las: Þú dauði! hvar er þinn broddur? þú helviti! hvar er þinn sigur? Guði séu þackir, sem oss hefur sigurinn géfið, fyrir Drottinn vorn Jesúm Christum!" Stúlkan opnaði þá augu sín, við hljóm þessara orða, og af hennar ásjónu framskein rétt guddómlig gleði, og hún sagði: "já sigur, sigur fyrir Jesúm Christum!" Þareptir féll á hana svefnmók að nýju, svo hún vissi ecki af neinu kríngum sig. Síðan, þegar hún vaknaði

aptur, sagdi eg til hennar: finnur þú nú ecki, mín kæra! hvornig ad Guds kraptur vidhéldur þér í þínum þjáníngum? O jú, svaradi hún, eg finn ad Guds miskunsemi vid mig er ómælanliga stór! Eg sagdi þá: eru nú ecki fyrirheit hans dýrmæt sálu þinni? Hún svaradi: "Æ þau eru øll fyrir mér sem já og Amen í Jesú Christó." Eg sagdi og spurdi: finnast þér nú ecki þínar líkama þjáníngar þúngar vera? Hún ansadi: mér finnast þær svo léttar, ad eg valla verd þeirra vør! Eg svaradi: ó hvørsu gódur er Drottinn! Hún sagdi þá: æ eg er ecki verdug þeirrar miskunar, sem hann audsýnir mér! eg er alls góds óverdug! Eg sagdi þá til hennar: senn muntú fá ad sjá hann, svo sem hann er. Hún svaradi: þess vona eg — eg — eg! Og nú seig á hana svefnmók ad nýu. Eg leit þá til módurinnar og sagdi: hvílík Guds nád er þad, ad eiga barn sitt svo nálægt himnaríki, sem þitt barn nú er! Hún svaradi med sundurslitnum ordum af harmi: já hvílík nád hefdi þad verid, hefdi nú hennar gamla módir mátt fylgja henni! Æ. þad er svo sárt ad skiljast ad! Eg ansadi: fyrir Guds nád vona eg, ad þid fáid snart aptur ad finnast, til þess aldrei framar aptur ad skiljast! Fadirinn svaradi þá: vid þann þánka hugga eg mig; og Gud géfur mér nú, ad géta verid ánægdari yfir sínum vilja, enn ádur. Nú raknadi sú sjúka aptur dálítid vid, og sagdi med ofurveikri røddu: æ fadir minn! æ módir mín! gódur er Gud vid mig! treystid honum! vegsamid hann eylífliga! Og til mín andæpti hún: eg þacka ydur fyrir ydar kjærleika til mín! En — má eg bidja ydur einnar bónar! Þegar eg er í burtu, lítid þá til foreldra minna! þau eru gømul; en eg vona, ad gott verk sé byrjad í sálum þeirra! eg vona ad mínar bænir séu heyrdar! æ

litid til þeirra! Þér fylgdud systur minni til greftrunar; má eg bidja ydur um þad sama fyrir mig! Eg svaradi: allt skal ské, sem þú óskar, ef Gud lofar. Foreldrar hennar stundu nú og grétu hástøfum. Sídan taladi eg til hennar og sagdi: hefur þú nú nockurn efa í þér um sáluhjálp þína? Hún svaradi: ó ney! Guds nád er yfirskjótanlig, og hann géfur mér sinn frid! Eg spurdi: hvad þeinkirdú um daudans dal, sem þú átt nú ad fara ígégnum? Hún svaradi: Hann er ecki svo dimmur, því Drottinn er mitt ljós og min sáluhjálp! Eg sagdi: qvídirdu ecki líkamans þjaningum? Hún ansadi: Drottinn vægir mér! eg vona og treysti á hann. Nú gripu hana um sinn nockrir daudans drættir; en ad þeim afstødnum sagdi hún aptur: æ gódur er Drottinn vid mig! blessadur veri minn Frelsari! minn dýrmæti Frelsari, Jesús! Hans blód hreinsar mig af øllum mínum syndum! Gudi séu þackir, sem mér hefur sigurinn géfid! Eg — eg er frelsud! Herra, í þínar hendur fel eg minn anda! Nú dróg af henni málid aptur. Vid féllum øll ó kné og tilbádum Gud; og Drottinn var midt á medal vor. Eptir þetta taladi stúlkan ecki eitt ord framar, sem skiljast kunni. En hún lá þar eptir ædileingi í sætu svefnmóki, og sofnadi svo fullkomlga útúr því, í Herrans fadmi, hvor ed hafdi svo vel vid hana gjørdt.

Eg skildi svo vid hana skommu eptir þad hún hætti ad tala, tók þétt í hønd hennar, til merkis ad eg qvøddi hana, og sagdi: Eheilstur er upprisan og lífid! Eg merkti ad hún vard þess vør; en gat þó hvørki tekid opin sín augu, eda géfid nockurt svar.

O, þetta var eitt merkiligt sjónarspil, sem uppfyllti þánka mína og ímindanir, á allri minni heimreisu. Eg þeinkti: Far þú vel, þú elskada Guds barn! þar til ey-

lífdin aptur sameinar ockur! Þú varst sem einn brandur frelsadur út úr eldinum, svo þú verda mættir ein stjarna, skýnandi á festinga dýrdarinnar! Á þínu dæmi hefi eg lærdt ad þeckja, hvör sá er, sem uppbyrjar, framqvæmir og fullkomnar verk trúarinnar og kjærleikans í syndaranna sálum! ÆE þad er Jesús! Jesús sem er allt í öllum! Hann hefir unnid kórónuna! Hann hefur alleinn unnid til ad bera hana! Ó ad einginn vildi reyna til ad ræna hann hans dýrd; med því ad þacka sér þad, sem hann á honum ad þacka! Hann frelsar, frelsar alleinn, og frelsar í kroptngasta máta! Honum sé dýrd og æra ad eylífu!

## Fimmta atridi.

Eptir bón hennar og foreldra hennar frambi eg yfirsaung og lestur vid greftrun hennar líkama, ad feingnu þartil leifi hennar regluliga sóknarprests. Þegar eg nú á tilsettum degi reisti til verks þessa, og átti fyrst ad koma ad heimili Dayrmanns, voktust hjá mér háleitar ímindanir í tilliti þessa áformada verks, og þeirrar sælu burtförnu manneskju. Eg ímindadi mér hvílík gledi þad hlyti ad vera, sem þær trúudu sálir feingju ad smacka, nær þær innkæmu í adra veröldu. Því þar sem þeltra skuggafulla trúarsjón gétur ordid þeim hér, midt í lífsins þjáníngum svo indæl og upplífgandi, hvörsu hlýtur þá sú gledi ad vera stór, þegar þær fyrir utan speigil og rádgátu sjá og skoda, í himnesku ljósi, alla þá dýrd, sem þær ádur trúad og vonad hafa. Ef innvortis hugganir heil. Anda eru þeim opt hér, midt í þessum táradal, svo sætar og endurnærandi, hvört hjarta kann þá ad ímynda sér, hvör túnga ad úttala fögnud

þann, sem þær reyna, medal þeirra heil. Eingla og útvaldra, í þeirri himnesku Jerúsalem, hvar öll tár verda ad eylífu þerrd af þeirra augum. Þetta heimfærdi eg til þeirrar sælu Dayrmanns dóttur, hver sálast hafdi skömmu eptir burtför mína. Eg rakti nú í huga mínum tilbaka þau mörgu og mikilvægu samtöl, sem eg, medan hún lifdi, hafdi vid hana átt, og lá nú vid ad safna þeirra í sálu minni, og finna til misánægju yfir missir hennar; en eg lét þá þánka strags dempast hjá mér, med ad hugsa til þess, ad hún nú géngin væri til sinnar eylífu hvíldar, og hvorsu ótilhlýdiligt þad væri því, ad eg skyldi óska hennar híngad aptur, minnar eigin ánægju vegna. En rétt í þessum svifum heyrdi eg líkkluckunnar hríngíngu eptir þá sálugu Elísabet, er med sínum temprandi hljómi virdtist ad géfa mér og ödrum þá hátídligu áminningu: "O mannsins son, minnst þú þess, ad þar er ecki nema eitt fótmál milli þín og daudans! rádstafa þessvegna húsi þínu í tíma, því þú skalt deya, en ecki lifa!" Vedrid var stillt, útsjónin um landid margbreytt og merkilig, svo allt mátti géfa besta tilefni til ondligs eptirþánka, og til samanblandadrar heilagrar sorgar og gledi.

Dayrmanns litli bústadur var hérum hálfa mílu vegar frá kyrkjunni. Þegar eg kom inní bæinn, voru þar komnir ýmsir christiligir vinir saman frá nágrenninu, til ad votta sína sídurstu heidrandi endurminningu, eptir þá sálugu Dayrmanns dóttur. Sumir höfdu ordid henni kunnugir í hennar sídarsta sjúkdómi, en adrir höfdu haft kynni af henni leingur. En allir sýndust bera augljósa vyrdingu fyrir hennar áduþeckta christiliga sinnislagi. Þegar eg var bedinn ad koma inní húsid, þar sem líkid var lagt, og þar sem náúngarnir og fá-

einir adrir vinir voru samankomnir, til ad líta í sídarsta sinn á leifar þeirra sælu Elísabetar, gét eg ecki med ordum útlistad, hvilíkar tilfinníngar voktust í sálu minni. Eg þeinkti, þetta er einúngis hýsmid, sem eg hér sé, því þess ódaudligi innbyggjari er floginn inn til þúsund betri bústadar. Hann er þar í hóp med Cherubím og Serafím, sýngjandi saung Moysis og Lambsins, á fjallinu Síon; og midt í því eg hugsadi til míns eiginn daudligleika og syndarinnar, sem eg hefi móti ad strída og á ad sígra, vaktist sú brennheita bæn í brjósti mér: "O ad eg dáid gjæti, dauda hins réttláta, og mitt hid sídarsta mætti verda sem hans!"

Elísabetar yfirbragd var ad vísu umbreytt, þó voru mikil líkindi af svip hennar eptir. Foreldrar hennar sátu til höfdalags vid líkkistuna, en bródir hennar til fótalags. Fadirinn leit ýmist þeigjandi augum sínum til síns dauda barns, ýmist hóf hann þau til himins upp; þad sýndist svo sem hann stríddi vid, ad ofurgéfa sinn vilja, undir Guds vilja; og tár hrundu ofan eptir hans gömlu kinnvöngum, sem sýndu hvílíka sorg hann í brjósti bar. En módurinn æpti og andvarpadi hátt, og sýndist ad vera yfirkomin af sorg, útaf missir sinnar svo dýrmætu dóttur; og hrumleiki hennar og ellibragur mátti vekja vidqvæma medlidun í allra hjörtum. Kona nockur, sem merkiliga sîdsamt útlit hafdi, og sem veitti húsi þessu forsorgun, þegar naud adþreyngdi, géck til mín og mælti: Herra! þetta er framar gledi enn sorgar dagur; svo mun vorri elskudu og söknudu systur Elísabetu finnast hann, þar um efast eg ecki. Hún er nú fránumin allri sorg og sút; eda hugsid þér ecki svo sé, minn Herra? Eg svaradi: eptir sem eg vissi, sá og heyrdi, hefi eg þá fullkomnustu vissu um, ad sálu hennar

er nú hjá sínum Frelsara, í Paradís! Þá andvarpadi sú sárhriggva aldrada módir og sagdi: Æ Gud hjálpi mér vesællri og gamallri skèpnu, nærfeldt uppgéfinni af elli og harmi! æ mín dóttir er daud! og eg fæ aldrei ad sjá hana framar! Gud vertu mér syndugri liknsamur! Þá sagdi eg til hennar: Þessi þín sídarsta bæn, mín góda kona! mun teingja ykkur saman ad nýu, Pad er eitt andvarp, sem flutt hefur mørg þúsund til dyrdarinnar. Pad flutti dóttir þína þángad, og eg vona þad muni þig lika svo þángad flytja. Hann — miskunsemdanna Fadir! — sem þú hrópar til, vill einganveiginn reka þá frá sér, sem þannig sthrópandi í Jesú nafni, til hans koma. Þá sleit Dayrmann sína laungu þøgn, og sagdi til konu sinnar: látum ockur trúa Gudi fyrir barni ockar, og trúum honum svo lika fyrir sjálfum ockur! Drottinn gaf, Drottinn apturtók, blessad sé nafnid Drottins! Ockar mæda mun nú skammvinn verda hér í heimi eptir þetta. Hann gat svo ecki, fyrir harmi, talad meira. Soldátinn, sem eg ádur áminnst hefi, tók þá Bibliuna, rétti hana ad mér, og sagdi: máské þér, Herra, viljid gjøra svo vel, og lesa einn kapitula fyrir ockur, ádurenn vér førum af stad til kyrkjunnar. Eg gjørdi svo, og las þann 14da Cap. í Jóbs bók. Gudlig kyrrd og eptirtekt útbreiddi sig hjá øllum, medan eg var ad lesa. Eg gjørdi sídan fáeinar athugasemdir yfir Capitulann, og heimfærdi þær til nálægra kríngumstædna. Þá sagdi vor áminnsti vinur af strídsmanna rod: eg er ad sønnu einn vesæll soldáti, sem eckért á af þessarar veraldar munum, nema þad sem eg lifi á dagliga, en eg vildi nú samt ecki skipta minni sáluhjálpnar von í eptirkomanda heimi, fyrir allt þad sem þessi verøld kynni mér í té ad láta. O hvad er í aud

og veldi varid, án Guds nádar! Þó eg gángi hér frá einum stridsmanna flocki til annars, þá gét eg samt fundid Gud minn allstadar. Æ þackir sé hans heilaga nafni, sem hér er tilstadar dagliga, midt á milli flocks hinna lifendu og daudu! Eg finn ad hér í lífi er og svo gott hjá honum ad vera, og hvad mun þá verda í ødru lífi? Hann er nú hér midt á medal vor!

Sumar adrar af þeim nálæga persónum tóku og svo hlutdeild í voru samtali; og allir minntust á þann gudliga lifnad, lídíngu og dauda þeirrar sælu Dayrmanns dóttur. Ein úng kvenpersóna, um tvítugs aldur, sem ádur verid hafdi mjøg hégómliga sinnud og léttúdarfull, sýndist verda merkiliga hrærd af þessu voru samtali, og eg hefi sídan ástædur feingid til ad vona, ad Guds nád hafi þá byrjad ad verka í henni, ad sækja eptir hinu betra hlutskipti, er ecki skal frá henni tekid verda. Hvorsu ólík var þessi samkoma vor, þeim opt aldeilis óuppbyggiligu já hneigsläuligu erfisdryckjum, sem stundum haldnar eru eptir dauda menn, vid hvorjar tídum er bersýniligt: ad daudir — einsog Jesús sagdi — grafa hina daudu! Undir samtali voru sýndust foreldrar hinnar sáludu ad endurlifna, þar tal vort var líkt því, sem þau heyrdt hefdu optliga dóttur sína hafa medan hún lifdi. Tárug gledi hýrgadi þeirra yfirbragd, þegar þau heyrdu hrósad dóttur sinni; edur réttara ad segja, þeim hrósad, sem gjørdt hafdi hana ad kéri miskunarinnar, og ad verkfæri til svo mikills andlígs góds í húsi foreldra sinna.

Nú nálgadist tíminn til ad fara af stad til kyrkjunnar. Eg géck þá ad kistunni, til ad sjá þá sáludu í sídarsta sinni. Þad var audsjáanligt, ad hún dáid hafdi med (andligu) brosi, hvors merki vid lídi voru á

andliti hennar, er vottadi þá gledi, sem sála hennar hafdi, midt í daudanum, verid full af. Eptir vaná var líkami hennar prýddur med laufum og blómstrum. Hún sýndist nú sem onnur brúdur prýdd til ad gánga á móti sínum brúdguma. Þessi blómstur voru ad sonnu forgéngilig, en þau máttu samt minna mig og adra á þau óvisnanligu Paradísarblómstur, med hvorjum sála hennar ad eylífu prýdd verdur. Þar eptir var líkforin og =fylgdin stofnud, hvar ad merkiligust var sokum þess, ad allar þær persónur, sem í henni voru, voru fullar alvarligs og andligs sinnislags. Eg álýktadi því ad gánga á undan edur fremstur í flocki; en næst líkborunum fylgdu þeir æruverdu gomlu foreldrar æpandi med stórri hjartans hræríngu. Þeirra álit mátti uppvekja medaumkun, kjærleika og heidrun í allra brjósti. Hin onnur skildmenni fylgdu sídan þeim á eptir, og sídan seinast adrir þeirra vinir, sem þar nálægir voru. Eptir þad líkforin var áfram komin hérum hundrad skrefa, urdu þánkar mínir frá sér numdir af því, ad vinir þeir, sem eptirfylgdu, tóku í forvarandis, en þó mikid yndisliga, ad sýngja einn líksálm. Og var saungur þeirra yfirmáta sætur og hátidligur. Af saungsins yndæli jók mikid bædi þad blída vedur, sem var, og landsins fagra afstada, ígégnum hvort ad líkforin lá; hvar á ofan bættist og hin stillta líkhríngíng, sem áleingdar alltaf heyrdist frá kyrkjuturninum; allt þetta var nú sem samverkandi til ad upptendra líkfylgjaranna andagt. Reisa vor lá fram hjá smábæum nockrum, og vér urdum varir vid vyrdíngarfulla gaumgjæfni hjá ollum, sem ad oss sáu; hvorra yfirbragd margra hvorra lét í ljósi heidrandi endurminníngu þeirrar sálugu manneskju. Um fimm minútna bil var saungnum áfram haldid, svo leingi heila reisan vid=

varadi. Eg gét ecki med ordum útmálad tilfinníngar hjarta míns undir þessum hátídliga saung. En játa má eg, ad eg aldrei hefi adrar eins haft fyrr né sídar. Eg æskti ad sidvani þessi væri meir tídkadur! Saungur, med gjætni og stillingu brúkadur vid opinberar andagtar æfíngar, eykur visfuliga yndæli þeirra og kraft til ad vekja sannkristiligar tilfinníngar. Nú komum vér loksins til kyrkjunnar. Þjónustugjördin var heyrd med djúplægri og audmjúkri athugasemi, og þegar til grafarinnar var komid, var súnginn sálmur sá, er hin sæla Elísabet sjálf útvalid hafdi. Allt var fullt andagtar, einfeldnis, sómasemdar og lífs. Sídan var líkami þeirrar dýrmætu sálar lagdur í grofina, í von gledifullrar uppprisu. Var svo skilnadartjaldid dreigid fyrir um hríd, inn til þess hún á sídarsta degi mun sjást til hægri handar síns Endurlausnara; já sjást honum til dýrdar, sem eitt kraptaverk hans nádar, og minnisteikn hans miskunar.

Nú, mínir lesendur og heyrendur! Loksins munum vér, — eg og þér allir — opinberast fyrir Endurlausnarans dómstóls! Æ! látum oss þá ransaka, hvort vér allareidu réttiliga yfirgéfid hofum vora jardnesku afgudi: Sýsn holdsins, sýsn augnanna og drambsamligt líferni; og hvort vér af alvoru erum teknir til ad þjóna lifanda Gudi? Erum vér íklæddir Jesú réttlæti, og hans audmjúka sinnislagi? Hofum vér allareidu, med sannri ydrun og lifandi trú, leitad svo nádar hjá vorum Gudi og Frelsara, ad vér feingid hofum allra vorra synda fyrirgéfníngu? Lifum vér svo dagliga í Lausnarans samfélagi? Er hann vort allt í ollu? Og þú hinn fátæki, sem þetta heyrir edur les, hvor ad þvi leiti líkur ert þeirri sælu Elísabetu Dayrmanns dóttur! Vit þó, ad

ecki frelsar þin fátækt þig, nema þú sért eins og hún rikur af lifandi trú og góðum verkum. Ert þú þá sá, sem sækir eptir himneskum auðæfum, en gjörir þig ánægðann með þín jarðnesku kjör? Er Guðs náð þitt dagliga sælgæti; Guðs orð þinn dagligi spegill, og trúið bæn þín daglig óaflátanlig æfing? Ef þú ert svo sinnaður, getur þú verið eins rikur í koti þínu, sem konúngur í höll sinni; rikur nefnil. af þeim auðæfum, sem eru öllu jarðarinnar gulli og gersemum þúsund dýrmætari; nefniliga af Guðs náð, góðri samvitsku og sannri von eylífs lífs; hvörjum auðæfum að hvörki getur mölur né rið grandað, né þjófar eptir þeim grafist. Gáck svo, með því hugarfari, þinn veg áfram til þinnar endalyktar, allt þartil þú hvílast fær í friði Guðs, og uppstanda til þins hlutskiptis a siðarsta degi. Guð hjálpi oss öllum til að vera þvílikir hér í heimi, og verða þvílikir annars heims! Hjálpi hann oss þartil fyrir sinnar miskunar sakir, í Jesú Christó! Amen!